# Æfi
og
# Útfarar-Minning
fyrrveranda
Amtmanns í Vestur-Amti
Íslands,
Herra
## Stephánс Stephensens.

Skrásett og útgéfin
af 
Bródur hans
Dr. Magnúsi Stephensen,
Conferenceráði og Justitiario.

Videyar Klaustri, 1822.
Prentud af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.



Stephán Amtmadur Stephensen er borinn og barnfæddur ad Bessastødum á Alptanesi sydra, árid 1767, þ. 27da Dec. edur 3ja dag Jóla (á sama dag, sem eldri Bródir Hans Magnús), af Foreldrum, Stiptamtmanni Olafi Stephensen og Frú Sigrídi Magnússdóttur, hverra Ættgøfgi, Dygdir og Æfisøgur, bædi eru nú lifendum hér á landi þjódkunnugar, líka ádur stuttlega áhrærdar í prentudum ættartølum og Æfi-minníngum. Hann ólst upp í Foreldranna húsum, hvar Hann naut alúdlegrar uppfrædíngar í

gódmentum, uns Hann 1782 komst á vetrum til kénnslu og frekari leidsagnar í flestu, sem úngum gásumanni af ædri stigum, mátti til fullkomnunar og frama verda, til Mágs Síns, þess ódaudlega og hálærda Biskups Doctors Hannesar Finnssonar, hjá hverjum Hann tók svo miklum og brádum framförum, ad Hann árid 1785 vard, á sínu 18da alduts ári, med sóma dimitteradur, af þáveranda Pro-rectore Skálholts Skóla, Páli Jakobssyni, og sigldi sama Sumarid til Kaupmañahafnar Háskóla med eldra Bródur sínum, þá Copiista í Rentukammers Cancellíinu, sem þad ár var í annad sinn af Konúngi híngad íslendur, en þá sem Commissarius til úttektar og vidtöku Skálholts Biskupsstóls, Dómkirkju og Skóla, med öllu þessum tilheyrandi, og til sölu þessara innstædu-fjár og fasteigna, samqvæmt

Kóngsbrefi frá 29da Apr. 1785 §. 5. Sitt fyrsta Lærdóms-próf (Examen artium) þreytti Hann vid Háskólann undir Jólin, sama árid; hid annad, edur Philosophicum, í Júlíó 1786, og hid þridja edur Embættis-Examen í Løgspeki árid 1789, øll 3 med besta lofsthýri edur Laudabili. Ari sídar vard Hann, þann 4da Júnii 1790, af Konúngi skipadur Vice-Løgmadur í Islands Nordur- og Vestur-Løgdæmi, og giptist fám døgum seińa, edur þann 10da Júnii, þeirri af dygdum og margsháttar qvennkostum sídan gódfrægu Kaupmanns Díderich Holters Dóttur, Morthu Maríu Holter, med hverri Hann í frek 15 ár lifdi í kjærleiksfullu hjónabandi, hvert Forsjónin blessadi med 10 Børnum, øllum efnilegum og til gæfu og frama líklegum. Hid ellsta þeirra er Olafur, fæddur 24da Marts 1791, fyri laungu

Candidatus Juris með besta lofstýrí Laudabili), nú Auditeur við Húsar-anna Riddara-lið á Sjálandí. Honum næst Sigríður, fædd 30ta Aug. 1792, sem fyrst ólst upp í Við-eyar Klaustri hjá Afa og Ömmu, en eptir þessarar dauða hjá Fødurnum, er 1819 gipt Candidato Juris Olafi Magnússyni Stephensen á Innra-hólmi. Henni næst kom Margrét, fædd 3ja Januar. 1794, en hún deydi Barn þ. 30ta Jan. 1795. Ragn-heidur, fædd 19da Jan. 1795, ólst lengst af upp hjá þeim gódfrægu Höfd-íngs Hjónum í Hrappsey, Birni Gottskálkssyni og Mad. Ragnheidi Bogadóttur, seinast þó um eins árs tíma hjá Fødurnum og Stjúp-módur sinni Frú Gudrúnu Oddsdóttur Ste-phensen, en giptist árið 1820 Presti Helga Thordarsen til Saurbæar á Hvalfjardarströnd. Þessum næst-

ur er Magnús, nú Candidatus Juris; fæddur 13da Jan. 1797, sem ólst frá 1ta æfinnar ári upp hjá sínum eldra Fødurbródur á Leirá, Innrahólmi og Videyar Klaustri. Þá er Petur, fæddur 1798, nú Stúdent, giptur 1821 Gydrídi Þorvaldsdóttur Prófasts Bødvarssonar. Svo Hannes, Stúdent, nú vid Kaupmannahafnar Háskóla Gudfrædi nemandi, fæddur 1799. Þá er Elín, fædd 23ja Dec. 1800, sem frá 5ta aldurs ári ólst upp hjá Mági og Náfrænda Fødur síns, Cancelli-rádi Jónasi Schéving og Fødur-systur sinni, Frú Ragnheidi Schéving, fæddri Stephensen, en seinasta árid þó hjá Fødurnum og velnefndri Stjúpmódur sinni, hvadan hún á sama dag, sem Systurnar, Sigrídur og Ragnheidur ádur — þó eptir Fødursins dag, undir eins og Petur Bródir hennar — þann 21ta Júnii

1821, giptist þeim, fyrir Gáfur og Lærdóm nafnkénnda Land-Physico á Islandi, Hra. Jóni Thorsteinsen. Stephán kom svo Elíni nærstur, og fæddist 1802 á Engjaslætti; er hann nú vid lærdóms-mentanir undir Dimission kominn. Yngst er Martha, fædd þann 14da Júnii 1805, eptir hverrar burd, hennar, vid seinnstu barnsængurnar ádur svo lengi rúmfasta og mjög hætt komna, áqæta Módir í þeirri barns-sæng litlu seinna sama daginn burt-sofnadi, af óstødvanlegum Blódlátum.

Í stad þess ad lýsa hér framar fyrirtaks qvennkostum þessarar afbragds Konu, skal Grafminning hennar moldum vid Utførina sett, og sídan rist á Marmara-legstein yfir leidi hennar í Hvanneyrar Kirkjugardi, géfa stutt ágrip og hugvekju'um, hvad

Þá með henni mistist, eins og sú siest hér undir í Nótu sett*), við hverja eg

*) Hér. blundar. ágæt. Höfdíngs. Qvinna.
Frú. MARTHA. MARIA. STEPHENSEN.
Fædd. þann. 17da. Novembris. 1770.
Gipt. þann. 10da. Junii. 1790.
núverandi. essta Assessori i. Islands konúngl.
Landsyfirrétti. og Matricul-Commissario.
STEPHANI. STEPHENSEN.
Tíu. Barna. besta. Módir.
Örend. þann. 14da. Junii. 1805.

Kona. gáfuð. og. góð. — Greind. þolinmód. — Reynd. ad. rádvendni. — Rík. af. qvenndygdum. — Harmdaud. húsi. sínu. — Bónda. og. Börnum. — Vinum. og. Vandamönnum. — Aumum. og. einstædingum. — Öllum. góðum. er. Hennar. dygd. þeckru. — Síns. stands. og. kyns. og. Sinnar. Ætiar. Sómi.

*Hér burt er lidid ljós — sem lysti foldá — Hér selst uppfölnud rós — Frú, hverrar quenndygd há — skal æ med lydum lifa — lifendra þöck og lofstyr fá.*

Til minníngar ástkjærri Mágkonu settí

M. STEPHENSEN.

einúngis bœta skal þvi: ad medal annara votta um ferdugleika hennar í iñanhúſs stjórn, er þad **Matreidslu Vasaqver** fyrir heldri **Manna Húsfreyur**, hún, med adstod síns Ektamaans, samantók, og sem hér í landi útkom á prenti árid 1800.

Þessi mikli missir fyrir vorn nú sáluga Amtmann Stephensen, þá eptirþreyandi med 9 úngum bornum, géck Honum innilega til hjarta, og olli mikilla harma Hans, en þótt 4 børn Hans þá væru á fóstri annarsstadar. Þau fylgdu oll 9 (því **Margrét** var dáin 10 árum ádur) bestrar **Módur Líki** ad legstad þess, og vard **Martha** fyrst skírd rétt ádur enn Líkid var til greftrunar úr kirkjunni úthafid, þann 26ta Júnii 1805.

Sem Vice-Løgmadur hafdi vor sálugi **Amtmadur** braudlaus lifad í

10 ár med konu og börnum, eda frá 1790 til 1800, fyrstu árin búlaus í Foreldra húsum ad Innrahólmi, en sídan vorid 1793 vid bú ad Hvammeyri í Borgarfirdi, þegar Konúngur veitti Honum effta Assessors Embætti í þeim konúnglega íslendska Landsyfirrétti, sem hér stiptadur vard ad Konúngs bodi, þann 6ta Júnii árid 1800, í Yfirréttarins og Lögþínganna stad; þó veittust Honum þar engin föst laun, bædi á medan eldri Bródir Hans væri þar Justitiarius, í hvers fjærveru edur forföllum Hann þó gégna átti verkum hans, og af því Hann þá strax var fyrirhugadur til ferdalaga um nockur ár hér um land, sem tilskipadur Commissarius í Nefnd þeirri, sem Konúngur, þann 18da Jún. s. á., tilskipadi, til verdleggíngar allra Fasteigna á Islandi; líka var Honum af Konúngi á hendur fal-

id, þann 6ta í s. m.: ad skráſetja nýa Løgbók fyrir Island, þó Ferdaløg Hans vída um Landid, ſem Commisſarius's til Faſteigna verdleggíngar, utanferd 1805 Honum ſkipud til Kaupmannahafnar hennar vegna, en þá og ſídan áhladnar Embættis annir og ecki hvad minnſt ordugur húſs-hagur Hans, tálmudu ſídan því Lagaverki. Hann hafdi — ſem mælt — í 10 ár, ſem Vice-Løgmadur braudlaus lifad; vard, til ad ødlaſt vidværileg húſakynni fyrir mann í Hans Stétt, og til ad ſtanda ſtraum af ſjølſkyldu ſinni í mjøg ſvo bágri tíd hér í landi, á Hans fyrſtu búſkapar árum, ad ſafna talsverdum og Honum ofvoxnum ſkulda-þúnga, hverjum ſeinni Embætta lítil laun, rauſnarlund Hans og vidqvæma hjartalag, ſigling, ferdaløg og dæmafá adſókn manna úr øllum áttum, bonnudu Honum ſídan af ſér ad létta; því þó Kon-

úngur þann 6ta Júnii 1806, eda 6 árum seinna, eñ Landsyfirrétturinn stiptadur vard, og á þann sama dag, kalladi Hann til Amtmanns Embættis í Islands Vestur Amti eptir Greifa Trampe, sem sama dag vard hér Stiptamtmadur, vóx Honum vid þad enn meira útdrag og adsókn á þeim stad, hvar Hañ bjó og á erfidum leigujördum til dauda-dags, fyrst á Hvanneyri frá Vorinu 1793 til Fardaga 1811, þá Hann fluttist ad Hvítárvöllum, og útarmadi sig stórum med því, ad byggja bádar þær jardir reisúglega upp frá velli ad kalla. Börn sjölgudu og þurftu menníngar vid utan lands og innan, en strid og bágasta tíd fyrir háa Embættismenn med fjölskyldu, uppáfjell ári seinna enn Hann féck fast brand, edur 1807, felldi penínga laun nærstum úr öllu verdi, en olli dýrtídar

mestu

mestu á ollum naudsynjum upp þadan, uns Hann deydi.

En — þó Born Hans vid andlát Frúr Morthu Stephensens, mistu dygda- og ást-ríka Módur, valdi Hann þeim, sem Fadir, adra jafndygdaríka, sem undir Hans náqvæmu Fødur umsjá, géck þeim, er heima vóru, strax og æ sídan í bestrar Módur stad. Von ordin vid módurlega umsjón Hans Barna, í nockur ár hjá þeirri sálugu, gódu Frú, og af henni mentud í flestum þeim qvenn-kostum, handydnum og hússtjórn, sem prýda mega ædri manna Frúr, stýrdi sú húsi Hans Honum til heidurs og ánægju, Bornum Hans til heilla, og ollum til loflegs umtals, ecki síst í fjærveru þess sáluga Amtmanns vid utanferd Hans 1805—6. Hann gladdist vid heimkomu sína, ad finna Born og

Smælingja sína módurlega umhirdta; sitt hús vel forstadid og allt í bestu ordu. Frá þeim tíma lifnadi í huga Hans sá ástar-þocki til þessarar þeim haganlega voldu, réttnefndu Módur ad allri umsjón, ad Hann fastrjedi, eptir reynda ánægjusama sambúd og hennar forstødu Hans húss um 4 ár Hans Eckila-stands, ad binda med henni nánari ástar-bønd, sem Ektafrú, en géfa Børnum sínum Hana, sem Stjúp-módur. Þann 13da Júnii 1809, fullgjordist samt fyrst ad Innrahólmi, hjá eldra Bródur Hans, þetta seinna Brúdkaup med Hans nú eptirlátinni Eckju-Frú, Gudrúnu Odds-dóttur, Þorvardarsonar, fyrr-meir Prests til Reinivalla í Kjósar Sýslu, med hverri Hann til dauda-dags lifdi í kjærlegasta hjónabandi, hvert Forsjónin aptur blessadi med 3 Sonum, nefnilega: Hans, sem fæddist

23ja Sept. 1809, en deydi, efnilegasta barn á 10da aldurs ári, þann 31ta Jan. 1819, og sjest Graf-minníng hans í Kl. pósti það ár á bls. 47 *);

*) Fyrir þá Lesendur þessarar Minníngar, sem ecki halda Klaustur-Póstinn, læt eg þá Graf-minníngu hjer fylgja:

† † †

Hér. felast. leifar. — fölnadrar. æsku.
HANS·S. STEPHENSENS
Amtmanns. Sonar.
Sem. fæddist. 23ja. Septembris. Arid. 1809.
En. deydi. 31ta. Januarii. 1819.
Frídur. var. Hann. synum, — Frábær. ad. náms. gáfum. — Greind. og. gódri. stillíngu. — Hverjum. manni. hugljúfur. — Hann. vard. þvi. sárt — saknadur. Astvinum.

*Æsku-blómid, elldra likast lytur,*
*Lágt ad gröf, þá daudans sigd þad skjer*
*Eins manndómur elli beygjast, hlytur,*
*Allt því stundlegt hvikult reynast fer.*
*Sæli Bródir! sallar Dóttur minnar,*
*Svip þú barst og gáfna líkíng hjer,*
*Senn mun Yckur sælt Foreldri finna,*
*Sæl fullkomnan hvar og eilif er.*

M. STEPHENSEN.

annar þeirra ſkírdiſt Þorvardur, bor-
inn 24da Sept. 1812, og er nú, ſídan
um Vorid 1821, á fóſtri hjá Fødur-
bródur ſínum í Videyu, en hinn þrid-
ji ſkírdiſt Jónas, ſem fæddiſt 4da Jú-
nii 1814, og deydi 6 ára gamall, hin-
um þá jafn-efnilegur eptir aldri, þann
22ann Maji 1820, eins og Graf-
minníng hans hér ad nedan ſýnir*).



  

*) Hér. er. jardadur.
JONAS. STEPHENSEN.
Amtmanns. Sonur. á. æſku. vori.
Fæddur. 4. Júnii. 1814. dáinn. 22. Maji. 1820.

*Skjótt Sálar Jónaſar ſkylis lundur*
*Viſnadi, en ſkjótt vanni upprann*
*I böndum Födurs og himin viſtum.*
*Alfadir leit ofgódann Jónas*
*Hér á jörd velkjaſt, heimtók Barnid,*
*Baud því dyrdlegri bygdir kanna,*
*Himneſka frædi á himnum nema,*
*En heims af vömmum hreinni ſálu*

Þessi missir tveggja Honum hjartkjærra og gæfuvænlegra Sona, tvø ár í röd, og þar á ofan úngs Bródursonar og Nafna Hans Stepháns, Júſtítz-Sekretera B. Stephensens, er deydi á 6ta aldurs ári þann 4da Okt. 1820, (hvers Graf-minníngu eg læt hér einig fylgia í nótu)*), lagdist þúngt á

*Födur helgum ſkila og fagna ſkiptum,*
*Sofdu vært, Bródir! ſjá Þig aptur*
*Salir vinir ſenn ſalann Engil.*
M STEPHENSEN *Dr.*

† † †

*) Barn. hér. í. Módur. blundar. ſkauti.
STEPHAN. STEPHENSEN.
Sonur. BJARNAR. Secretera.
Fæddur. 22. Maji. 1815. dáinn 4. Oct. 1820.

*Litli Bródir! lífs er unnid ſtríd,*
*Sæll Þinn Andi, heims frá raunum hafinn,*
*Hér lyr ſorg, en Þú ert gledi vafinn;*
*Upp Þér runnin eilífd fögur, blid!*
*Heims úr reitum horfna Plöntu Þá*
*Hvi ſkal ſyrgja? hér var blómid þrúngid*

vorn sál. Amtmañ, sem sér til raunalétt-
irs eptir missir hinna, hafdi þá nýtekid
hann til sín, en í uppáføllnum sorga og
ødrum þúngbærum lasleika sínum, vard
sama sumarid ad sjá hañ leggjast lík, af
Brjóst-þrengslum, sem Jónas, í
þá yfirgángandi Barna-faraldri.

Þessi mikli Barna-missir géck,
segi eg, vorum sál. Amtmañi iñilega til
hjarta, yfirbugadi loks ásamt lángvar-
andi sjúkdóms og vanheilsu þjáníngum,
einkum af megnri og inngróinni Ikt-
sýki, sem máské aukist hafi vid hastar
lángferda reidir, Hans þollyndi og ró-
sama lundarlag svo, ad Hann, grun-
andi sinn burtferdar tíma nálægjast, og



---

*Hennar ösku; nú til fulls útsprúngid*
*Blómstrar plantad betri bnetti á.*
M. Stephensen *Dr.*

þad bágborna ástand, í hverju Hann líklega mundi eptirskilja sér hjartkjæra Eckju og óframfærd Börn, hverjum á medan Hánn lifdi, Hann varid hafdi allri Födur-náqvæmni og ástríki til ad koma þeim sem best á fót og til menníngar, fann þá margvíslegt sorga- og gremju-efni samtaka verda til ad gjörspilla sínu lángvaranlega ádur sárveika heilsufari, hverju Hann þó, sem lengst Hann gat, leyndi ættmenn og ástvini, en reyndi ad vidrétta þad og dreifa sorgum sínum og óeird med ydduglegum ferdalegum á Hans seinasta æfi-sumri, en líklega þá ofvoxnum ordnum Hans veiktu kroptum; því á þeirri seinustu ferd Hans seint í Septemb. 1820 út á Akranes, lasnadist Hann svo, ad Hañ í 2 daga lagdist rúmfastur á Ytrahólmi, réttist sídan nockud vid, svo ad Hann tók af herku einni um megn sér ad rída heim aptur í kulda vedri med mjög svo

veikann mátt, en lagdist strax eptir; komst samt enn á fætur aptur og ról, svo ad Hann þann 30ta Sept. géck ofan ad Ferjustadnum á Hvítárvollum sér til afþreýingar, og heim aptur; leiddi þá Stephán Bródurson sinn vid hond sér, mæddist samt mjog, sem sár-lasburda undir, og kófhitnadi upp hladbrecku-tradirnar vestantil vid bæinn; heimtadi svaladryck þá heimkom, saup hann af, tók nóttina eptir helsótt med feikna skjálfta og hofud-órum, svo strax var sendt eptir Land-Physico, sem ódara kom Honum til lidsinnis med þau medol oll, sem hann henta héldt best, og lét sídan ydnglega senda eptir nýum og umbreyttum, eptir því, sem sú megna sótt margbreytti sér. Land-Physicus tjáir hana verid hafa: Febris nervosa hectica, arthridide complicata, edur tærandi koldu-veiki, stundum med hofud-órum, ásamt megni Ikt-

sýki, hver lengi þjádi vorn Sáluga, einkum í vinstra lærinu, hvar í vatnsbjúgur mikill kom seinast í banalegu Hans, þá kraptar ódum þverrudu. Þó hafdi Hann optarst rænu allt til þess 16da Dec., og gjørdi ýmsar rádstafanir um útfør sína og adra hluti eptir dauda sinn, hvers Hann þá stødugt en rósamur vænti. Frá 16da Dec. brast Hann algjörlega rænu, og lífid vyrdtist úr því magnlega ad fjara burt, uns Hann, um hádegis-bil þann 20ta Decembr. 1820, med hægu andláti útaf slokknadi rétt sem ljós.

En—med Honum útslokknadi sannkallad fagurt ljós medal Íslands samtída Høfdíngja. Ljós ad fyritaks gáfum, vel og til alls almennings heilla stødugt vørdum til dánar-dægurs. Ljós í Embættis-stjórn allri og umsýslunum. Ljós í blídustu, yndislegustu og ástúdlegustu umgengni vid

vid alla, háa og lága, volduga og vesæla, efna- og þurfa-menn, yfirbodna og undirgéfna. Ljós, fagurt skínandi í Húsi Hans, fyrir Konum Hans, Børnum og hjúum, sem øll innilega elskudu og heidrudu Hann, sem ástríkann Fødur, eins og þau, og nærfeldt hverr madur úti frá, sárt hörmudu og søknudu þessa fágæta Landshøfdíngja. Fregnin um fráfall Hans vard, sem reidarslag í fjøldans eyrum, ecki einúngis medal allra Ættíngja, Vina og Amts-búa Hans, heldur allra, sem til Hans þecktu nær og fjær*), ellegar heyrt høfdu Hans ljúf-

*) Vid þá Fregn hraut Land-chirurgo Sveini Pálssyni, Fornvini þess sál. Amtmanns, þessi staka:

Minntust í forneskju — Munir tveir
Andi hefir augu — Eyru, munn —
Vissu þeir vóru — Veru samrar —
Gjørdu' ecki illt — Af ásetningi.
Fórust þó á mis — Forløg rjedu.
Á krossgøtum — Er klúngur vída!

mennsku, góda hjartalags, edal-lundar og gáfna-snilldar ordróm, og sjálfa þá, sem alkunnir vóru af ofundsjúkri áleitni gégn Honum og Ætt Hans um lánga tíma, sló samvitskan þá med sannfærfingu um Hans mørgu og frábæru mannkosta yfirburdi. Rógur og bakbit þøgnudu. Ofundin sjálf vard, sem ordlaus, þó hún annars aldrei þagni, og blygdadist vid — eda réttara: fann órádlegt — lengur ad hrak-lýsa og tyldra sjálfri sér fram — med rírnun svo þjódkunnugra og saknadra mannkosta.

Þetta mun hverr ærlegur madur vitna med mér — enn þótt nákomnum þeim Sáluga — sem nær og fjær, seint

---

Þeir vildu samt — Vera bádir —
Ækftu þdrum — Odals sama.
Leiddist þeim yngra — Lífs umbrot,
En sá eldri — A eptir nockud.
Sittist á sídan — Er heilla-tíd.
En ef afbregdur — Er engu tapad.

og snemma þeckti grant og rétt Amtmann sáluga Stephán Stephensen, hvers stutta, sanna, medhaldslausa, starlegri lýsíngu eg — sem Honum frá barn-æsku einna best kunnugur — voga hér med ad bjóda Lesendunum til Hàns gløggvari Minníngar, og vona, ad fáir sem engir af þeim mikla fiolda, er Hañ þeckti, girnast eda megna munu hana ad vefengja, ellegar ræka gjøra.

Stephán Amtmadur Stephensen var Madur á medal-vexti og rétt vaxinn. Fyrri part æfinnar spengilmenni, en á seinni hluta hennar, þegar heilsu Hans hnigna tók, vard Hann þrek-vaxinn vel. Augun fogur og bláleit; hárid døck-jarpt; andlit skapfellegt, høfdínglegt, fagurt sýnum, med riflegt ættar-nef. Vaxtarlag allt í ordu, baud, ásamt ollu Hans útliti, sérlegann þocka. Málfæri þægilegt,

kidugt, snjallt; rødd eins til saungva. Hañ var fljóthuga, snar-meñi, burda- og mesti kapps- og drifta-madur, í hverju, sem Hann tók sér fyrir hendur, þarhjá mesti hørku-madur til ad þola og vinna þrautir, hvar sem ad komu. Gáfur Hans sálar vóru fljótar, flugskarpar, lidugar, snilldarlegar; næmi all-fljótt; greind fín, já, fyritaks góð; innføll nett, skjót og snilldarleg, ætíd glad-vær, margbreytt og hæf til ad hressa upp sérhvert samqvæmi í hverri stétt, spaugsøm, fyndin, á stundum sneid-andi nockud og skopsøm. Rómur optarst blídur og ástúdlegur, breyttist á stundum í alvarlegann og bjódandi, þegar vidþurfti og þar. Gédslag þrádlyndt af náttúru, en létt og ljúft til blídu á ný, og náttúrlegast sí-gledjandi og gladvært, vinveitt, mildt og ástúd-legt, hneigt til kurteysi og sérlegrar sid-semdar, eins í tali og øllu vidmóti;

fúst øllum til adstodar og gódvildar. Hjartalag eitthvert hid mannkjærlegasta, sem vildi øllum vel, bædi vinum og óvildar-mønnum; ljetta allra mann-raunum, votta øllum gódsemd, heidur, rétt og þénustusemi; enganu hata, einkis lidins óréttar hefna, allt med blídu og gódsemd vinna og laga, veitt vina-hót med staklegri trygd og raunsu umbuna. Allteins midadi øll Hans Embættis-stjórn til ad laga med gódu og fødurlegum áminníngum, allt hvad áfátt var; engann Honum undirgéfinn Embættis-mann um skorfram ad sakfella, margt midur fullkomid sem lengst ad yfirsíga; med gódu og hyggindum ad leidrétta; med gódfúsum tillogum ad milda. J fjórtán og hálft ár Hans Amtmanns Embættis, og medan Hann 1809—10 hafdi geistleg Stiptamts verk hér á hendi, komst enginn þeirra undir laga-

ákjæru fyrir neitt, en þvi vissara sérhverr opinber glæpa=madur, gégn hverjum Hann, enn þott mildur af hjarta, beitti allri þeirri stjórnsemi, sem Réttvísin krefur. Gjørdi Hann þó aldrei Ulfalda úr Mýflugum, né leitadi tilefnis til ad yfirfalla fólk med útarmandi løgsóknum um sérhvert lítilrædi, sem metast kynni med smá-vegis yfirsjónum; né heldur til ad ofþýngja neinum med óþorfum, nýum eda mædufullum áløgum; verndadi sérhvern vid løg og rétt, og rósamar eignir; áseildist engann og fann enga ánægju ad blanda sér í annara málefni og hús-hagi, eda leita valdi sínu ótta edur fordildar þar med, hvar straung Embættis-skylda Hann ecki knúdi; né heldur dróg Hann til hennar meiri afskipti enn bar, óhlutsamur um annara Honum óvidkomandi verk og hagi.

Hann var Madur vel ad sér í morgum Vísinda greinum, en ljet þó ecki annad prentad Rit eptir sig, en II. Bindis 1ta Hefti af Islands minnisverdu Tídindum frá Vordognum 1798 til Vordaga 1799, í sjúkdóms forföllum og fjærveru síns eldra Bródurs, ad bón þessa samid. Hann var ágjætlega vel løgspakur, sagna- og ætt-fródur; hagmæltur vel; bar gott skyn á einfaldar Lækníngar; taladi allvel franska túngu; fyrítaks sidblendinn og kurteis, og vissi í hvern hóp, sem Hann kom, svo vel ad haga og skipta vidrædum sínum og umgengni vid háa og lága, ad upplífga, æra og yndi þókti øllum ad návistum Hans. Svo reyndist þad erlendis í sérhverju samqvæmi; svo í heldri samqvæmum hér*); svo vid Ættmenn og

*) Enn þótt sálugi Amtmadurinn ecki skildi eda taladi engelska túngu, og Baronet Sir George

vini; svo vid Undirmenn, Amts-búa, hjú sín, bændur umhverfis, aumingja og þurfameñ og ferdameñ úr øllum áttum. Allir mættu høfdíngleguſtu gódgjørdum, ljúfmannlegri medferd, hjálp, adstod og þénustusemi í Hans géstrisna og mannkjærlega húsi. Hann þoldi varla nockurn aumann ad sjá; engum líknar ad synja, sem beiddist; naudstaddir leitudu heñar úr øllum áttum og fundu í húsi Hans allopt meiri,

Mackenzie og lærdir Fylgjarar hans reyndust tregmæltir á Frønsku, vissi Amtmadur Stephensen samt svo ad breyta vidmóti og umgengni vid þá, eptir sidum og skaplyndi þessara ensku Ferdamanna hjer, ad Mackenzie í 2ari Utgáfu Ferdasøgu sinnar: Travels in the Island of Iceland 1810, útkominni 1812, hermir á bls. 200—201: ad þessum lærdu Ferdamønnum þókt hafi Amtmadur Stephensen hjer einna líkastur Enskum ad sidum, ljúfur og þóttalaus í vidtali, og hafa skenkt sér syritaks Reidhest, sem Mackenzie dádist ad, og þad med þvílíkri kurteysi, sem ecki finndist fremri vid fin-sidudust Stjórnenda Hof.

heldur enn máské enn þá nánari skyldur leyfdu Honum af ad leggja — og þann tel eg helztañ brest vors; Sáluga, hafi Hans mannkjærlega hjartalag á stundum rádid framar enn upplýst skynsemi um skyldurækt, fyrir útlátum Hans og gódgjørdum framyfir krapta Hans, svo ad Honum og Hans nánustu þørfum, ellegar ødrum á-liggjandi fremri skyldu-krøfum yrdi fyri þær midur fyrisjed — enn þótt Hans fyritaks góda Búst jórn og búvit, framqvæmd og fylgi med allt, sem besta búnadi, jardar- og pen-ings-rækt vidkom, gjørdu Honum þad flest kleyft, sem færstum var ødr-um. Kasinn fjølda Barna ó-megd og skuldum vid lítil og bág-borin efni, lengst af búskapi Hans, Stétt Hans, þørfum og hjarta-lagi ósambodin, ljetti þad Honum litid, þó Náúngar Hans og Vinir

tæckju nockur Børn Hans til Fóst-
urs, þvi Hans hús vard eins fyrir
þad ódara fyllt med jafnmorg og fleiri
vandalans frá naudstøddum, og med
Eckjur og Munadarleysingja, en hjá
Hans þágu flest, þegar bú reistu — en
fá breyttu þadan vist ødruvísi — þann
bústyrk og opt sídan adstod, sem Hans
góda hjartalag matti þeim jafnan ríf-
lega bera, eptir þjónustu-dygd þeirra.
Þau elskudu Hann og í lífinu, en hörm-
udu dáinn, sem Fødur. Hans eptir-
látna Eckja misti med Honum alla
sína unun og adstod, en Børn Hans
øll bestann og náqvæmastann Fødur.
Þeim ljet Hann eptir þann arf ein-
ann, sem lofleg Heidurs-minning
dygdugs og uppbyggilegasta lifs fær
veitt, og uppskéru von þeirra heilla,
til hverra Hann, med mikilli trúar-
og skyldu-rækt og med fyritaks likn
og adstod naudstaddra, gædsku og vel-

gjørdum vid alla, sem Hann megnadi, hér svo ríflega fyrir þau nidursádi. Hjá Hans mistu med Honum bestann Húsfødur; Vestur-Amtid innilega heidradann og elskadann Amtmann; allt Island gódfrægasta Lands-høfdingja; Vinir tryggvasta Astvin*); voladir margreynt traust athvarf.

C

*) Medal ótal dæma uppá Vinar-trúfesti þess sáluga Amtmanns, skal eg hier nefna til eitt órækt og alkunnugt: ad eptir þad sáluga Frú Martha, vid fædingu Dóttur þeirra Elinar, árid 1800, reyndi hættulegar barnburdar afleidingar, sem lengi-løgdu hana í rúmid á eptir, fleck sálugi Amtmadurinn þann, fyrir Lækninga vit, nákvæmni og heppni, almennt løfada og sídan mjøg saknada Handlæknir Vesturlands, Hallgrím Backmann, laungu fyrir fædingu Stepháns Sonar þeirra, um sumarid 1802, til ad vera hjá sálugu Frú Mørch vid hennar barnssæng, þá um tíma til veru á Leirá hjá eldra Bródur Amtmannsins, vid hverja fæding Frunni mættu hættulegustu tilfelli á ný; en — þar Backmanni heitnum samt tókst

Þetta sannleika munu víst allir samþykkir, og sem ofundarlaust unna Dygðum sannmæla, viðurkénna;

með nærfærni sinni og dugnaði, þá að heimta hana úr helju — til hvers hann samt hjeldt sig optar ófærann, vandræða-hennar, en elli sinnar vegna — ljet sálugi Amtmaðurinn sér ecki nægja, þá að sæma hann stór-gjöfum, heldur Eckjan hans og Niðja á síðan lífeldt til síns dauðadags, þar á ofan margföldum og miklum velgjörðum og aðstoð, hvað þeir enn lifandi þeirra munu viðurkjenna og sem þar hjá alkunnugt er. — Og þá Læknir Backmann 9 árum seinna, við Lækninga tilraunir Sveinbjarnar sáluga Þórðarsonar deyði, í banalegu þessa, að Hvítárvöllum, þann 20ta Martz 1811, kostaði sálugi Amtmaðurinn Backmanns ágætis heidurlega útför. Þar. Grafminning þessa almennt góðfræga og merkilega Læknis honum þá sett, ecki er áður prentuð, læt eg hana nú fylgja þessum blöðum:

† † †

Hér. er. leiddur. Höfdíngs. madur.
HALLGRIMUR. JONSSON.
Heitinn. BACKMANN.
Fæddur. 22ann. Martz 1739.
Örendur. 20ta. Martz. 1811.

Hans játníng flaug og vid fráfall vors Sáluga sjálkrafa flestra munna á milli,



---

Fyrsti. Handlæknir. Fósturjardar.
Um. fjóra. tugi. og. fimm. ár. betur.
Madur. trúrækinn. tryggur. gódgjarn.
Vitur. hreinskilinn. valinkunnur.
Læknir. heppinn. og. líknarfús.
Raunbest. örlátt. Rausnar-menni.
Sjúklíngum. vída. saknadur. Fadir.

---

Þá Eyr*) *vid* Backmanns *leidi leit*
*Landsbúa sorg, hún dauf í bragdi,*
*"Ristid á stein: ad vart eg veit,*
*"Vinar ad fylla skard," þeim sagdi,*
*"Launid, ef eignist Líkann Hans,*
*"Lækníng og ástúd betur enn*
*Honum!"*
Dygd og Gratiur**) *gáfu ans:*
*"Gledirík á Hann laun í*
*vonum!"*

Svo. setti. ástfólgnum. Vini.
M. Stephensen.

---

*) Eyr nefndist Læknínga Gydjan á Nordurlondum.
**) Gratiur kallast Pocka-Gydjur, sem ráda giedþeckni, vinsemd, gódsemd og snilld.

frá sveit til sveitar, Sýslu til Sýslu, Amti til Amts og frá einu landshorni til annars. Hann hafdi í banalegu sinni Sjálfur sagt allt fyrir Utfør sinni; bedid, ad fáum, sem engum, nema Børnum sínum og nánustu Ettmønnum yrdi til hennar bodid, og ad sínir egin Þjónar bæru sig til grafar. Jardsetníng Hans framfór ad Hvanneyri þann 4da Jan. 1821 í vidurvist margra Náúnga Hans og því nær allra Hvanneyrar Sóknarmanna, sem, enn þótt óbodnir, sjálfkrafa sofnudust þángad sparibúnir til Líkfylgdar, af vyrdíngu og þacklátsemi vid þann sáluga Amtmann, og til opinbers vitnis um Almenníngs soknud þessa mista Landshøfdíngja. Á Lík-kistuna, gjørda eptir fyrimælum Hans af Hans egin heimilis Smidi, var lagdur vid útførina prýdilegur Silfur-skjoldur, en eptir hana

uppsestur í Hvanneyrar Kirkju, vid hlid annara Silfur-skjalda, sem sál. Amtmadurinn hafdi látid smída til útfara Barna og annara Náúnga Hans og í sömu Kirkju uppsesta. Á Skjöldinn finnst stúngin þessi Grafminníng:

GALDT. SKULD. MODUR.
I. GJALD-DAGA. SETTANN.
*ISLANDS.* VESTUR-AMTS.
YFIR-STYRIR.

STEPHAN. STEPHENSEN.

FÆDDUR. XXVII. DEC. MDCCLXVII.
DAINN. XX. DEC. MDCCCXX.

EKTA-FRUM. TVEIM. ASTRIKUR MAKI.
BÖRNUM. ÞRETTAN. BESTUR. FADIR.
EDLA. MANNVINUR. ÖRMUM. STYTTA.
AMTSBUA. TRAUST. ÆTTJARDAR. PRYDI.

*Sæli Bródir! sár er missir* ÞINN.
*Ættmenn, Vinir, aumir, hans vid bodin*

*Otal qveina: mín fell gæfu-stodin!*
*Hverr nú strýkur barma-tár af kinn?*
*Gáfna-snilldar, gædsku, dygda-ljós*
ÞITT *skal gégnum grimu daudans skína,*
*Gardarshólmi blessa Minníng* ÞINA.
ÞJER *ei deya Þjódar skilid hrós.*

Elskudum Bródur setti
MAGNUS STEPHENSEN *Dr.*

Eptir Jardar-förina voru ofan sett tvö erindi Gráfminníngarinnar þar súngin, undir nýu, af þeim ferduga Hljódfæra-Leikara Faktóri Möhr til þeirra samsettu, fögru Sorgar-lagi, en upphafinu svo breytt: „*Sæli Andi! &c.*" Ad hverju búnu Sóknar-Forsaungvarinn þar, Student Torfi Arnason, í samankominna Sóknar-manna Nafni birjadi og saung med þessum og ödrum þar samankomnum, sem súngid gátu — undir Laginu: — *Nyd Livets korte Morgenröde* — eptirfylgjanda erindi:

Þó feli mold vorn Föður blída,
Og fljóti tár um legstad Hans,
Dygd Hans í minni lifi, lyda
Lód medan byggist Íslands!
Hans ungur sakna og eldri má.
O! ad Hans Líkann fengjum sjá!

Adur enn Líkid var úthafid úr Kirkjunni, héldt Söknar-Presturinn Hra. Jón Backmann vid hana snjalla Rædu til Erruminningar vorum sáluga Amtmanni; hér samt ostlánga til prentunar. Sídan géck Tengda-sonur, Pessa Presturinn Hra. Helgi Thordarsen fram ad Kistunni og ljét med annari stuttri Rædu-i ljósi sinn og Almenings söknud eptir þenna sinn og margra mistann Födur, og fylgir sú Ræda hér nærst á eptir, ásamt helztu Erfiljódum eptir Hann, i hverjum ýmsir Honum gran-kunnugir og flestir vandalausir Merkismenn vitna og sanna, hvad eg, sem nákom-

inn, hefi hér sagt, og er þeim samtaka almennur Þjóðar-rómur, sem lengi mun láta sáluga Amtmanns Stephensens loflega orðstýr og Dygða-minníngu lifa í landi voru!!!

---

# Ræða

Prestsins Hra. Helga Thordarsens, við Lík-kistu sáluga Amtmanns Hra. Stephans Stephensens, þann 4da Januarii 1821.

---

Hærstvyrðtu Tilheyrendur!

Eg kém hér einúngis fram í þeim tilgángi, að eg megi syrgja með Yður; því — þó eg gjörði það eins áður með sjálfum mér, þókti mér ecki ótilhlýðilegt opinberlega að kannast við þá tilfinníngu, sem svo opt heimuglega hefir stúngið mitt hjarta, að eg hefði mist þann, er eg elskaði og heiðraði, sem

Fodur. Ad vísu hefir Guds födurleg forsjá bundid mig til margra gódra gosugmenna, sem nú eru hér samankomin; en — þó mættu mín augu vera blindud, ef eg ecki sæi, ad sá er mér horfinn úr þessum veglega ranni, sem med ljósustu elskumerkjum hafdi skuldbundid mig til sífelds þacklætis og þeirrar innilegustu elsku. Æ, fyrirgéfid! ad eg helzt minnist minna eginn harma.

Eckjan grætur hér þann besta Ektamaka, sem Gud gat géfid henni; Börnin, — leyfid mér ad telja þar med ockur Tengdasyni Hans, og þau ad eins óvordnu Tengda-börn — syrgja þann ástríkasta Fodur; Brædur, Systir, Mágur og adrir Ættmenn þañ elskuríkasta Bródur, Vin og Adstodara.

Ihugum þó, hversu miklu fleiri munu sakna Hans, sem ecki einúngis var sómi og stytta Sinna, heldur einnig Almenníngs? — Hversu margir munu í þessu vetfángi gráta, sem ecki hafa uppheldi fyrir sig edur sína, og svo opt fundu líkn í Hans mañelskufulla, vidgvæma hjarta og Hans örlæti? Sorgin er

ecki einúngis bundin til þessa stadar, hún er almenn, eins og mannelska, rausn, hreinskilni, edallund og adrar blómlegar dygdir vors burtkallada sæla Vinar.

Eckert er, sem vitni um dygdir Hans, og mannkosti eins hátídlega og ágætlega, sem þad: ad af öllum Hans eptirþreiandi Elskendum, þykir sérhverjum sinn skadi mestur, sem sýnir, ad sérhverr þeirra elskadi Hann manna mest, og átti þadan von mestrar adstodar. A medal Hans Elskendanna erum eg ecki einúngis oss, sem hér erum, heldur hinn mesta skara Landsmanna Hans, hverjir áttu því meira traust hjá Honum, sem þeir meir þurftu Hans vid; engann veit eg fleirum harmdaudann! Mestur hluti, ecki einúngis þeirra, sem stódu undir Hans verdslega umdæmi, heldur einnig Landsins, syrgir ásamt oss. Þó er náttúrlegt ad þeirra harmur sé hvad mestur, sem med öllum jafnudi nutu Hans frábæru eginlegleika; vóru þad Hans eptirþreiandi Eckja og Börn; hún misti í Honum hinn stakasta Mann ad allri stjórnsemi og blídlyndi, hvers hollu ráda

og yndislegu sambúder hún sárt saknar, en Börnin syrgja þann Fødur, sem allt vildi tilvinna, ad Þau mentud yrdu í gódum sidsum. Ad gëta huggad Ydur, er mër því heldur ofvaxid, sem eg ecki algjörlega fæ huggad sjálfann mig; þó hefi eg svo hugsad, ad vër skyldum hugleida hvert vort eginlega sorgarefni væri.

Vër hofum ad vísu mikils mist; en — syrgjum ecki af því, ad vër hofum hreppt tjón mikid fyrir sjálfa oss, því þá saurgudum vër vora sorg med ofmikilli umhenkingu vors eginn hagnadar, en syndum óhæfilegt vantraust á Guds fodurlegu forsjón, hvert vër því sítur ættum ad syna, sem Gud einusinni vyrdti oss þessarar miklu gáfu, og vër því heldur ættum ad vera stadfastir í þeirri trú, ad hún framvegis muni sjá vort rád, eins og vër hofum augljós merki þess um undanfarna æfi; eda — mundi ecki hann, sem af sínu gædskuríka orlæti veitti oss þessa gjøf, hafa ótal útvegi adra oss til heilla?

Þër, hæstvyrdta Eckjufrú! vitid ecki sídur enn eg: ad Gud er besta forsvar Eck-

nanna, og þegar hann er med Ydur, hverr sær þá verid á móti Ydur? Börn hans ættu ad láta sér þad hugfast: ad Gud er Fadir enna födurlausu.

Vort eginlega sorgar-efni er: ad ver höfum mist Manns, sem vér elskudum heitt; því sú tilfinníng er náttúrleg hverju hjarta, ad sakna þess, sem þad unnti; enginn getur hafa haft nockrar mætur á því, sem hann ecki saknar, þá hann hefir mist þess. Þessi elsku tilfinníng er því heidurlegri og betur grundvöllud, sem sá var stærri eginlegleikum prýddur, hvers vér söknum.

O! mikil er því Ydar sorg, sem hvad mest vórud bundnar til Hans hjarta, og í Hans opnu sálu svo opt urdud varir vid þær dygdir, sem gjördu Hann Ydur og öllum ödrum elskuverdann! Allir vér, sem hér erum nálægir, elskudum Hann einninn svo heitt, söknum Hans sjaldgæfu mannkosta, og því er allra vor sorg mikil.

Ecki einúngis elskan til vors burtdána Vinar eykur vorn harm, heldur einninn elskan til Fósturjardarinnar, sem nú misti einn

sinn prúdasta Son, hvers hún því sidur mátti vidmissa, sem hún átti færri þvílíka.

Hanninn er vor harmur í dag tilkominn; hann er ecki qveifarlegur, heldur hátídlegur, því hann rís af elsku til mannkosta og dygda ens framlidna Merkismanns; og sjærri fer því, ad eg vilji hindra þá sorg, sem þann-inn er undirbúin.

Látum nú nhann þánka verda samfara vorum harmi, þann nefnilega: ad rækja hverr í sinn stad Minníngu þess búrtkallada Vinar, med þeim ásetníngi, ad líkjast Honum í mannkostum. Hvad má fremur mínka Eckjunnar þúngu sorg, enn þad áform, ad heidra Hans Minni med ad sjá sem best fyrir Börnum Hans, sem enn eru undir hennar umsjón, eins og hún híngad til hefir gengid þeim ollum í gódrar Módur stad? Hvad fremur auka oss hugar-mód, Börnum Hans, enn sá ásetníngur, ad láta ásjást í voru framferdi, ad vér hefdum haft Hans dygdir oss fyrir augum? Þessi þánki, sé hann ríkur hjá oss, vona eg ad gefi vorri sálu dugn-ad og krapt til ad taka hetjulega vorn mikla

tjóni, og til ad halda med sálar-styrk áfram vorn veg, samt aptri oss frá, med sífelldum gráti ad stansa vora ferd hér vid Hans legstad. Sorgin er, eins og allar adrar tilfinníngar mannlegs hjarta, innan vissra takmarka, ecki einasta leyfileg, heldur elskuverd; en eins er henni varid og ødrum tilfinníngum, ad hún ecki má vera taumlaus, því Guds ord og skynsemin eiga ætíd ad ráda fyrir oss. Nú kenna þau, ad vér munum seinna sjá á himnum þá, sem á undan oss hafa farid hédan og oss vóru ástfólgnir. Eckjan missir því ecki sinn Ektamaka, Børnin ecki Fødur sinn, vinir ecki Vin sinn, nema um lítinn tíma. Gledjum oss því þenna stutta tíma, sem eptir kañ ad vera, vid þañ þánka, ad vér innan skamms munum sjá þaun aptur, sem vér nú syrgjum, hladiñ ómumrædilegri vegsemd og sóma, hverjutveggju því meir frábæru, sem Hans mañkostir hér vóru frábærri.

Þessi þánki, sameinadur þeim fyrri, mun enn fremur efla vora huggun; ef vér þad, sem eptir er, leitumst vid ad ná Hans mannkostum med trúrri uppfyllingu vorra skyldna, mun

þad seinna verda oss gledi-efni; sem nú eykur oss mestra harma. Þegar vér finnum Hañ, mun Han's sæla, sem vér nú ecki sáum ì-mindad oss, verda oss því meira gledi-efni, sem vér máské miñumst vorrar fyrri sorgar. Þessi ìmindan léttir mínum þrúngnum huga, því eg sé í trúnni, svo sem hreinum spegli, ad Gud muni hafa sett þeña minn ógleymanlega Fodur nálægt tróni Jesú Krists, hjá einum siña ástfólgiña vina, ödrum Fodur, er eg átti, og sem Gud sneña aldurs míns tók frá mér. En á adra sìduna mun þad verda vorum sæla Astvini-hid mesta gledi-efni, þegar Hann sjer oss, ef Hann þá finnur ad vér erum fullkomnari, eñ þá Hann skyldi vid oss.

Þessir þánkar hafa, ásamt yfirvegun fallvaltleika allra hluta í þessum heimi, veitt mér nockra huggun, og veit þó sá, sem rañsakar hjørtun og nýrun, ad eg sár-sakna þessa míns hjartkjæra, sæla Fodurs. Hann var mér svo ástúdlegur, og svo hugsandi um minn hag, ad Hann allt fram í sitt andlát ljet sér hann umhugadann; eg naut Hans elsku og einlægnis, og allt gjørdi Hann sem best til mín. Eins og eg elskadi Hann, svo elska eg Hann enn, og vil æ gjøra, medan mér vinnst aldur til, því Hans velgjørdir

og elska vid mig vóru frábær. Ockar samvist varadi ecki lengi; Gud hefir svo viljad, ad mér skyldi verda stopul Fedra-eignin, en hañ gaf mér þá góda, og þar fyrir prísa eg hann; þó tel eg mig ecki foduclausann, því eg treysti Guds forsjón, eins hér eptir og híngad til.

Látum þad vera vort starf, medan vér erum hér allir samankomnir, ad hugga hvert annann, svo ad vér getum skilist án tára, þótt vér mættumst harmþrúngnir. Látum þettad tilfelli minna ofs á vorn eiginn fallvaltleik, og förum hédan med því áformi, ad búa ofs undir hinn sídarsta dag. Förum hédan fulltrúa um þad, ad allt, einninn þettad mædu-tilfelli, sem nú hefir mætt ofs, verdur ad þena þeim til góds, sem Gud elska.

**Nú, Drottinn! hvar vid skal eg hugga mig?** segir **David** í sínu mótlæti, hann svarar sér sjálfur: **eg vona á þig!** Segjum allir med þessum Guds mañi: **Drottinn! eg vona á þig!** og skiljumst svo vid þenna sorglega stad hughraustir! **Nú vil eg þagna og ecki mínum munni uppljúka, af því þú, Drottinn! gjørdir þad! Amen!**



# Erfi=Ljóð,
eptir sálüga Amtmann
## Hra. Stephán Stephensen,
innsend frá
undirskrifuðum Skáldum.

I.

Hvað megu strjál-
byggðrar
Storðar búar
allir í einu heyra?
hvað fær svo fjöll
farið í gëgnum?
hverr er svo hljómur
hár?

Hver er svo næm
hárra rausta,
at hjertu manna hrífi?
Op það ei nemur
í eyrum stað,
en þrengir til iñstu æða.

Hljómur er svo hár
af Höfðíngja láti,
og sorgar óþi seggja;
ei nemur óp það
í eyrum stað,
það til hjarta þreyngir.

Lát er það Amt-
manns
á Landi Vestra
Stepháns Ste-
phensens,
Líkhríngíngu Hans
hin laungu fjöll
Íslands endurqveða.

Hvî er Herra sá
harmadur þánninn?
var Honum svo af-
bragd í?
Margur er sá gódur,
er gumar ei syrgja
ællum áttum frá.

Hann var makligur
at margir harmi,
var Honum afbragd í.
Sudurland særdist;
sjálfs Umdæmi
veslast Vesturland.

Rausn og ræskleik
af reckum bar,
vinsæld og mjúka mildi,
skon og skarpleik,
skjærar margar
dygdir og drenglyndi.

Lid og rádhylli
laungum syndi
hverjum þess er þurfti,
snaudum hjálp
hverjum fremur;
æstir ættmønnum.

Einn þad mælir,
slíkt er opt reyndi
sér og sínum veitt.
Allir þad mæla
einu hljódi:
veit eg ástsælli engan.

Laung verdur bid,
ad líkindum,
lángar aldir lída,
ádur Høfdingi
Hvítárvøllu
skini slíku skreyti.

Laung verdur bid,
ad líkindum,
lángar aldir lída,
ádur jafn-gódur,
ad øllum kostum,
Stad Hans fremud-
ur fylli.

Hvarf sú alþjódar
ást í skyndi,
fyrri enn vardi von,
midt í veg
og varanda fjørvi,
ljós í logi midju.

Þvi eru svo hvell
harma-klucku
lik-hljód lengi slegin;
fylgir þó eymur
ufrid sætur,
hins mikla Tys med
mønnum.

Bodar sá eymur
annad stærra;
hvad mun þetta þá?

ad sú Minning
deyr aldreigi,
er leiddur eptir sjer.

Bodar sá eymur
annad stærra;
hvad mun þetta þá?
Pad er, ad adrir
ædri heimar
fagna nú Ødlings
øndu.

*J. Espólin*
Sýslumadur.

II.

## Gimlis-För.

Pad vard á Gimli*) upplukust allra,
gulli þøktu, orsøk ne vissi,
tidinda vænligt hurdir sala
tákn er mundi; hundrad þúsund.



*) Gimli — segir Edda — heiti bestur Salur á Himni, gjørr af rauda Gulli, og standi á Okolni á Inda fjøllum, byggia hann Hvitálfar, edur gódir menn og sidlátir einir.

Mælti þá Risn *) —
en hún þar mestu rédi:
þetta man ecki
engra vita
tídinda, skammt man
ad skodum hverra —
fagna salir
frægum gésti.

Líkt vard ádur
einusinni,
í heidni kristin
þá hingad sló,
Arnkéls Aumma **),
sú aud-mild bygdi
bordstofu, midt
á brautu þjódar.

---

Nafnid vyrdist enn ad vidhaldast medal Inda, á Himala edur Himinbjørgum, hæstum allra fjalla í heimi, hvar Hra. Professor Finnur Magnússon telur Asgard forna, og bestir Biblíu Utleggiarar Eden edur Paradís verid hafa. (Samanber hjer vid Kl. Póst árid 1821 á bls. 16 med nótu. M. St.

*) Risn og Rausn er sama — hjer af Skáldinu gjørd ad Gydju, sem þeim er tamt, þegar mála vilja fyritaks dygdir og mannkosti — lætur Skáldid því Risn, fyrir hjer í lífi veittar mestar velgjørdir, hlotnast mest völd á sídan á Gimli. M. St.

**) Geirrídur — segir Eyrbyggja, Kap. VIII. — bjó í Borgardal fyrir innan Alptafjørd á Skógarstrønd, sem var þvílík rausnar-kona: ad hún lét geöra skála um þjód-braut þvera, oc skyldo allir menn rída þar í gégnum; þar stód jafnan bord oc matur á géfinn hverjom, sem hafa vildi. Af þesso þókti hún hid mezta göfig-qvendi. Hún var Aumma Arnkells loflegs Goda Þórólfssonar Bægifóts. Líkir Skáldid hjer sáluga Amtmannsins Giestrisni vid hennar, og ad hús Hans hafi verid álíkt. M. St.

Sekþum hvítínga
gull-varada!
veigar fjørugar
velja skulum!
breidum becki,
en bord reisum!
stillum ad slagi
strengi hørpu!

Gripu hvítinga
gull-varada,
veigar fjørugar
velja nádu,
breiddu becki,
en bord reistu,
stilltu ad slagi
strengi hørpu.

Utgengu glæstir
Gimlis-búar
á vit komanda;
vonir brostu —
tøm runnu augu
ad alvalds tróni,
hvadan inndæli
ómælt streymir. —

Sáu þeir Gydju
Gudi kjæra,
grátinna huggun,
gladra yndi,
drepsótt lasta,
en dygda styttu,
dýrstann leidtoga
til Drottins hylli.

Sáu þeir Gydju
Gudi kjæra —
sáu þar finnar
sælu módur —
þeirri gaf eilíft
einka leyfi
Son Guds, ad tala
vid sælann Gud.

Audmjúk og øругg,
í anda krapti,
Engla og manna
adal-túlkur —
himneskri málsnilld
mál réd hefja,
Børn hana hétu,
vid Buclú g hæda.

Flyt eg ord hinnstu,
heyr þú, Fadir!
þess þér unni,
þess þér treysti.

Hef' eg flutt margar
hans hjartans óskir,
óheyrdar aldrei
þær aptur snéru.

Brann lof í hjarta
hardtnær køldu,
veittra velgjørda;
vanmegn túngu
heyrn ei hamlar
þess hjartans mál
einast' heyrir,
einast' metur. —

Þad mælti Stephán
er þér nú flytjum:
Leystur em'k þegar
frá ljúfu starfi
Embættis=anna,
audnu leitun
elskadra Landa
í Amti Vestur.

Hættum fyrstødu
húsi' ad veita,
Afqvæmi mínu'
og Ekta-qvinnu —
heimtir þinn engill
hollur Davíd.—

Hvad er høllum
úr heimi ráda?

Margt er á ordid
meir enn sjáum,
dymmt er í heimi
og hálar gøtur;
vagl er á auga,
valtur fótur,
vantar opt krapta,
þó viljinn dugi.

Mælir þó vitnid
í mínu brjósti
(sá vardhalds=Engill
veittur manni),
trúr vild'eg vera
og verd halda
yfir mér sjálfum
og undirgéfnum.

Veitt sé þér dýrdin!
ad vidurleitni,
ei létstú mína
ad engu verda.
Lát bresti hulda
af blídri mildi!
met vilja verknad
í vidleitn' dáda!

Lát blessun skjóta
og frjófgun valda
Ísland yfir!
æ! Amtið Vestur!
Lít blídu auga
til Barna, Qvinnu,
Ættingja, Vina,
allra manna!

Brestur nú auga,
en byrgist ljós;
hvílist hjarta,
heyrnin dofnar —
heyri' eg þó raust,
er mig hédan kallar—
já, — eg kém, Fadir!
Þér fel minn anda!

Það mælti Drottins
hinn dýri Túlkur:
(geislaði' um heima
glansi nádar),
heyrir Gud fyrr
enn hjartad þenkir,
veitir betra
enn verdur bedid.

Baud hann róseini'
ad bana-hvílu
Vinar síns ylkja
og veikann styrkja. —
Vægir hann breiskleik',
en vilja lætur
verk sér þykja,
sem verdlaun krýna.

Fadir eckna
og fødurlausra,
Fadir landa,
lýda' og alda,
huggan syrgenda,
hjálp í þrautum,
øllum gott allt,
sem orka' ad þyggja. —

Baud hann ad traustur,
sem trygdin forna;
baud hann ad blídur,
sem bródir væri,
vitur og gætinn,
sem vakandi auga,
ástfólgnum verdi
vardhalds-Engill.

Baud hann lof list.
ad líkhom' daudum,
þess er loflega
lifi vardi;

vill hann ad lifi
um lángann aldur,
frægd Hans og dygdir
í flocki Nidja.

Heyrdist hlust=ljúfur,
heldur fjærri,
samstilltur gledi
saungva eymur,
heldur, hæckandi,
hjørtum blídar
hræríngar vakti,
himins munad.

Inntak pad mundi
ydis qvæda:
„ Vel er pá dáid,
„ er vel er lifad;
„ sælir eru peir,
„ í Drottni deya;
„ værdir peir hljóta,
„ verk peim fylgja."

Svo skal Island
um alda=radir
óska pá ødlast,
Yfirmadur
verdi' hañ sem Stephán
Vestfirdinga

Amtmadur, gódur
og elskuverdur.

Veri sem bergmál
hin brøttu fjøll,
eld hver annari,
svo allir viti:
sárt grét pá Ørbirgd,
er anda ljet
Amtmadur Stephán
Olafsonur.

Rýmra var brjóst Hans
enn bús=hagur,
forsjón pó styddi
flestra meiri;
sjód hér safnadi
sífeldt snaudum,
safnadist sjálfum
sjódur hadra.

Mentum var aukinn,
málsnilld prýddur;
edallund allur,
ad allra dómi;
hjarta=prúdur,
hjarta=mildur;
grætur pví heimur,
en Gimli fagnar.

Sá var sjón fegur,
er sýsta nádu
sveitir saman
sólu fegri;
fremstur stód allra
í flock adkomnum,
Daudans Engill
frá Drottni sendur.

Gladt vard á Gimli
gledi bóli:
blídt var þá fagnad
frægum Gesti,
var Hann umkríngdur
verka góðra
glæstum rødum,
ad gengis auka.

Sigri hrósandi
hárri raustu,
mál hóf vid glæsta
Gimlis búa:
„ Eñ er einn fluttur
„ frá eymdum tíma,
„ í eilífd sæla,
„ ad Alvalds bodi."

Gladt vard á Gimli
gledi bóli:
fjøld kom aumra,
sem ádur vóru,
þeirs holla fordum
hjálp Hans þádu;
Honum þacklátir
í hallir budu.

„ Hrædist mig heimur
„ og hatar bædi;
„ fagnar mér eilífd
„ og elskar líka —
„ em'k varhygd vondum,
„ von Þess góda;
„ em'k þar eckert,
„ sem ecki skal." —

Gladt vard á Gimli,
gledi rómar
háqvædum lýstu
hjartans yndi;
allt laut ad einu,
allir súngu
sigur-vers: „Dýrd sé
„Drottni'á hædum!"

Sit nú á Gimli
gulli þöktu,
þar sem að dyggvar
dróttir byggja,
mettast af gæðum
Guddóms húsa!
dreckjast af straumum
dýrðar veiga!

*A. Jónsson.*
Prófastur í Nordur Isafjardar Sýslu.

III.

1.

Frónið hjúpast sölum sútar blæum!
Finnur tjón sitt — brigda beiskann skamt!
Harms fregn borin Sýslum, Sveitum, Bæum,
Sorgum grefur Islands Vestur-Amt;
Frá Borgarfjardar bygd þann leggur
hljóminn!
Bergmála Vestfjarda núpar óminn!

2.

Horfinn Mæring harmar hverr er kunni,
Hrigdar öllum góðum foldur ben!
Aud'gir, snaudir, ædri, lægri, munni
Amtmann sáma trega Stephensen!
„Hverr jafnoki Hans á tröd sæt anda!
„Hverr fær sekund bætt oss Herrans
dauda!“

3.

„Hverr skal athvarf aumíngjans, er beygja
„Ofréttur við glapnar sakir nam?
„Hverr að eckna hlustir qveini hnegja?
„Hrjádra málstað fús að bera fram?
„Alla við, sem Faðir bern, að breyta,
„Björg, heilsubót, ráð, styrk, gjarn að veita?"

4.

Horfinn er, sá gleði æðsta gleðja,
Gæðum býta, mat sér aðal-fremd!
Ædstu', að næra, svala, klæða, seðja,
Svánga, nakta, þyrsta, unaðsemd!
Mest er bræðrum — minst sér — lifði; seimi
Mat það heldra, Guðs að nota heimi.

5.

Horfinn Mæríng — Mannval Landsins — stærsta
Mannvin — Fremud hollann margra láns;
Fóstur- margra Föður barna kjærsta,
Fastann Vörd mót snörum gjæfu-ráns;
Mannvit hátt, er helg trúrækni lýsti,
Hvern allt vera meir enn sýnast, fýsti.

6.

Sárt vér horfins söknum — þó vorn trega
Sykrar háleit Minníng dygða Hans,
Minníng há, er með sér ódauðlega.

Mun hverr besti Sonur geyma Lands;
Dygdin aldrei deyr; med Fødur lifir,
Duptsins barna hróss upphafin yfir.

7.

Auga dapurt umbunar til heima
Upp vér sendum, Þín hvar fagnar ønd
Hverr sær metid mæti, þau um streyma
Mildri gladda nú í Fødurs hønd?
Mann-ást hér sig med í ætt Hans færdi,
Mørgum líknad' hún, er bølid særdi.

8.

Þar vér munum — þess er skammt ad bída —
Þig, kiær Herra! fegnir endur-sjá;
Þøck Alfødur Þér med færa blída,
Þig er gaf og tók, nær henta sá;
Eilífd þar skal inna Þér margfalda
Umbun hér sem tíd ei vannst ad gjalda.

9.

Þar hve margur Þig mun Andi qvedja:
„Þú varst sá, sem gladdir, hresstir mig?"
O! hver unan end mun Þína sedja,
Avarpar þá nádar Fadir Þig:
„Ad líkjast mér Þín lyst var ædst í heimi;
„Lit og njót her sælu', er eilífd geymir!"

10.

Þar mun tárin þerra lófs af hvörmum
Þess, er grætti, náqvæm Fødurs hønd,
Sárum þeirrar, sem nú badast hørmum,
Sundrud vidur heitust ástar-bønd,
Forklárud þá fadma megid bædi,
Forklárud med Engla-skørum Sædi.

11.

Ungar þegar Andir, fjør er þágu
Af Yckar qveikt, í sútar bygdum hér,
Fljúga mót, med fagnadar yndi háu,
Fedginum, er lífs. æd heim um ber;
Fødur dýrstum fagna'og kjærstri Módur,
Finna med þeim: hvørsu Gud er gódur!

12.

Saknadar hørmum sú má heimvon ljetta;
Segjum: Fadir? vilji verdi þinn!
Þrædum slód ad þessu marki setta
Þá Stephensen héltt, nú framlidinn!
Hverr mannvinur Hans æ Minning blessi!
Hann þá trega, Mildin ædsta hressi!

*Th. Bödvarsson.*
Prófastur í Vestur Ísafjardar Sýslu.



## IV.*)

Hvad er þad harma-
qveins
ad hlustum ridur
Ingólfs Eyu frá,
sum klæddir Jöklar
og aldin fjöll
óp þad endurqveda?

Ryðlast í lopti
ranna-tølur,
þúngum ecka þjádar,
er sem ecki viti
hvadan ad beri;
frá hmsum áttum koma.

Öll er þess von,
þvi Isafoldar
Forstjóri' er følur nár,
Amtmadur Stephán,
er øllum sýndi
gott þad, er gat Hañ mest.

Syrgja Vandamenn
Valmenni látid,
húss sins heidur og gledi;
hrellir hug þeirra
hørmum fylltann
Fødurs- og Frænda-missir.

Syrgja þeir allir
Hann yfir var bodinn,
utan- og innan-húss.
Blíd var Hans stjórn,
þvi blídlynd dygd
hvervetna Honum rjedi.

Syrgja fødurlausir
og fje-vana,
og vísin verkum svipt;
Hans var þeim ætid
hjálp til reidu;
Hann þerr'di þeirra tár.

Syrgja allir gódir
Ødling látinn.
þeir, sem Hans þecktu gjed.
Æfdi' Hann í leynum
ótal gott,
og leitad' ei lofs af
mønnum.

*) Ljód þessi eru ad sønnu ádur prentud í Islanz Sagnablada 5tu Deild, bls. 77—79, og undir-

Deyr sie, Rótur hinn Sæli
deya Frændur, sælu eilífrar;
eydist land og láð. launa fyrir lífs síns gjørdir.

*Th. Sveinbjörnsen.*
Candidatus Juris.

---

# V.

Lag: Þjer, Drottinn! þacka eg.

1.

Skard fyrir skildi nú
Skyndilegt ordid er;
Sorganna dymma drjúg
Dag gledi hylja fer,
Framlidinn frægstur liggur
Herra, hvers Minning' heidra ber.

2.

Amt Vestur Islands!
Upptaktú sorgar-skart,
Þar Liki þessa Manns
Þjer máskje stjórni vart,
Amtmanns Stepháns orenda,
Mun dygdir finna mikid rart.

---

teiknud bókstafnum X, en nú er vissa fyrir því, ad Höfundurinn se sá hjer undirskrifadi.

3.

Meiri því mundu hvar
 Mildi, Rjettvísi sjed?
Í höndur hjeldst og þar
 Hógværdin, einurd med,
 Ráð, framqvæmd, rausn, mannelska,
 Vitrum þeim Herra var allt ljed.

4.

Von er þó harma-hljód
 Heyrist af margri átt,
Saknadar sárum móð,
 Samtaka lýsa hátt,
 Ædri og lægri lýdir,
 Og gjeta missirs Þessa þrátt.

5.

Hann vard skjótt heidur lands,
 Heidradur Danmörk á,
Heidri þess háa stands,
 Hilmir því verdann sá;
 Alvaldur tign þó ædri,
 Vin sínum Englum veitti hjá.

6.

Hrósverdug æfi-ár
 Æ verda Höfdingjans,
Hvers safnan hirdsla fjár
 Hönd var þurfandi manns.

Mannvinar Minning lifa
Mun um aldir hjá lýd vors Lands.
*J. Thómasson.*
Capellan.



## VI.

# Frum-varp

á brødrar-hørpu
Heldur veika þó leikit.
Gjalla strengir úgullnir
Grát-hljóm dymmum rómi.
Ey-Gardars eldrud vordin,
Od raular þrúngin módi,
Hulpin oc harmi døpur
Hefur upp sorgar-stefin.

---

Island:

Hvi eru aldnir
harmi þrúngnir?
hví eru úngir
hrigdum lostnir?

hví eru sljód
sá-gliadar?
grætur høldа hvad?
hverju gjegnir?

Heyrir harma-qvein
hjálp-þursenda.
Berja sér á brjóst:
„bergut oss engi!
„Er hjálp-vǫlur
„er hǫndum þrifinn!
„er fold-skrautudur
„fjǫrvi rændur!"

Hví þrumit er
þrúngnir harmi?
hvat er harms-efna?
hverr er látinn?

Svar:
Þengils Amtmadur!
Þjód-mæringur!
látinn er Stéphán
Landshǫfdíngi!
ítur Mannvinur;
ollir þat harmi.

Island:
Þá er eit kyn,
þó kløkkvir-sent!
svella harmar mjer
sjálfri í brjósti!
Látum hróp heyraz

harma sárra?
látnm andæpa
jǫrd oc himn!

Hrópi hamrar
oc hǫmrum segi!
beri fjall fjalli
um fold vída:
„Látinn er Stephán
„Lands-Króna!
„látinn Mannvinur,
„manna frægstur!"

Saknit, Hans ysir-
oc undir-gefnir!
syrgit menn snaudir
oc sorgum þjádir.
huggun hreldra,
hjálp naudstaddra,
ekkna forsvar
oc aumra hæli!

Sof rótt, Sonur!
—þó sǫknum Þín
mjǫg svo mikit—
í módur-skauti!
er mjer hugar-fró,
hrelldri módur,

Bein Þín ad geyma,
 medan blundar hjer.
Lifi Ætt Þín
 vid lofs-týr frægann!
Lifi Minning Þín
 lángann aldur!
Lifi sálin
 í sælu hifins!
flutt or fángelsi
 í fögnut eilífann.

*H. Arnórsson.*
Student.



## VII.

Eg má, sem fleiri, yfir klaga!
 Ofsnemma hreppti dandans beð,
Eptir lofsverða Æfidaga,
 Amtmadur besti Stephensen.
 Manndygdir stærstu' og menta safn.
 Minníng Hans blessa', en heidra Nafn.

Hann gjørdi sóma sínu standi,
 Sanna má Islands Vestur-bygd;
Vorrar farsældar Vardhalds-Andi,
 Var sá med allri trú og dygd.
 Erfum nú dád og dugnad Hans,
 Dæmi hvi fylgjum Høfdíngjans.
 *G. Gudmundsson.*
 Faktor vid Búdir.



GALDT. SKULD. MÓDUR.
Í. GJALD-DAGA. SETTANN.
ISLANDS. VESTUR-AMTS.
YFIRSTÝRIR.

# STEPHÁN. STEPHENSEN.

FÆDDUR. 27. DEC. 1767. DÁINN. 20. DEC. 1820.

---

EKTA-FRÚM TVEIM. ÁSTRÍKUR MAKI.
BÖRNUM. ÞRETTÁN BESTUR. FADIR.
EDLA. MANNVINUR. ÖRMUM. STYTTA.
AMTSBÚA. TRAUST. ÆTTJARDAR. PRÝDI.

---

*Sæli Bródir! sár er missir þinn.*
*Ættmenn, Vinir, Aumir, hans vid bodin*
*Ótal qveina: mín féll gæfu stodin!*
*Hverr nú strýkur harma-tár af kinn?*

*Gáfna snilldar, gædsku, dygda ljós*
*Þitt scal gégnum grímu daudans skína,*
*Gardarshólmi blessa minníng Þína:*
*Þér ei deya Þjódar skylid hrós.*

Elskudum Bródur setti
MAGNÚS STEPHENSEN *Dr.*

